[Þess íslendska evangeliska smábókafélags rit Nr. 28.]

# Christi Kross,

## Grundvöllur vorrar Sáluhjálpar.

### Utlagt af útgéfaranum.

Eingin veraldar vitska edur lærdómur, hversu háleit, hversu fullkomin sem vera kann, gétur hugsad nockurt þad medal, sem megnar ad frid-stilla þá sálu, sem út af syndum sínum ángurbitin er, edur innhella stadfastri rósemi í syndumsærda samvitsku. Manulig speki dugir alls ecki til ad géfa fullnægjandi svar uppá þad mikilvægasta spurs-mál allra spursmála: **hvad skal eg gjøra, svo eg eignist eylíft líf?** En þar á mót gétur vors herra Jesú Christs Evangelíum oss óbrulta og óskeikula vegleidslu til ríkuglígustu huggunar í lífi og dauda.

Þad bendir oss til vors guddómliga Frelsara, og til hans dauda í vorn stad, svosem þess einasta ótáldræga lækningmedals móti öllum vorum synda meinum. Já, Jesú Christs kross er sá dýrligi huggunar grundvöllur, sem í Evangelío verdur oss fyrir sjónir settur, og einstakt kénnimerki, med hverju Jesú trúarbrøgd eru adgreind frá øllum ødrum heimsins trúarbrøgdum.

En ádur enn vér gaungum leingra affram, til ad hendla um Christi kross, skal fyrst minnast þess, ad Krossfestíngin, þetta fornaldarinnar skélfiliga daudastraff, var sá hersiligasti daudadagi allra þeirra, menn þá tilvissu. Hjá Grickjum og Rómverjum var straff þetta brúkad vid þá vidurstyggiligustu þræla, sem hrædilig stórbrot framid höfdu. Þad var heililigt, kvalafullt og lángvarandi. Fyrst vóru sakamennirnir húdstrýktir med písknm, flèttudum af rágum, í hvörja festir voru oddhvassir pinnar. Þar eptir hlaut sá fordæmdi sjálfur ad bera sinn kross til aftøkustadarins. Sídan vóru føtin rifin af kroppi hans; hann sídan ú þaninn á krossgálganum liggjandi á jørdu. Hendur hans þar eptir negldar fastar vid krossins þvertré, en fæturnir vid nedri endann. Sídan var krossinn reistur upp, og skordadur fastur í jørdunni. Svoleidis hlutu þá hendur og fætur, sem med naglum gégnumboradir voru, ad bera heilu þýngd líkamans, vid hvad pínan sjálf vard óútsegjanliga kvalafull. Tídum hlutu þessar óluckuligu mannskèpnur, ad kveljast heila 2 eda 3 daga, ádur enn daudinn endad feingi píslir þeirra. Ræníngjarnir, sem med Jesú vóru krossfestir, vóru sundurknosadir, til ad flýta dauda þeirra, svo líkamir þeirra ei yrdu hángandi á krossinum um þann í hönd faranda Sabbatsdag. En þegar óvinir Jesú fóru til ad brjóta bein hans, fundu þeir hann allareidu dáinn, hvad þá stórum furdadi.

Þetta, ad Jesús dó svo fljótt á krossinum, var réttsemd til sannleika þeirra orda hans, er hann sagdi: "eg hefi makt ad leggia mitt líf frá mér, og eg hefi makt til ad taka þad aptur." En orsök þessi var ogsvo, ad ellum líkindum, sú nidurþrykkjandi ángist í hans Sálu, þúngi manneskjanna sekta og synda, er hönum voru tilreiknadar, og sú óbæriliga kvöl, þess hefnanda Guds réttlætis. Med ordinu: Christi Kross, meinum vér þessvegna ecki til þess trégálga, vid hvörn hann negldur var, og á hvörjum hann lét líf sitt, heldur til þess dauda, sem hann leid á krossinum fyrir syndarana, til grimmleika písllanna á hans líkama og sálu, og allrar þeirrar smánar, sem fylgdi því ógnarfulla daudastraffi, og fyrir hvört óvinir hans héldu, ad þeir, án alls efa, heidu gjördt Jesú persónu og hans lærdóm, ad eylífri vidurstygd fyrir öllum heimi. Bodskapurinn edur lærdómurinn út af þessu efni, er þad sem Páll kallar: «predikunina um krossinn" 1 Cor. 1, 18.

Innihald þessa lærdóms, eptir Ritníngunni, er svohljódandi: allar manneskiur eru syndarar, og hafa med syndinni fallid í þá allra dýpstu hörmúngu, bædi tímanliga og eylífliga. Þad stód ecki í þeirra edur nockurrar skapadrar skepnu valdi, ad hjálpa þeim þar frá. Óumflýanlig var þessvegna þeirra fortapan, eylíf þeirra ólucka og þeirra örvænting; hefdi ecki Gudi þócknast ad

misſkunna ſig yfir þá. En hann gjørdi þad; bleſſ-ad verdi hans nafn þar fyrir ad eylífu! Þegar uppfylling tímans var komin, ſendi Gud ſinn ſon í heiminn, til ad frelſa ſyndarana. Nú var Gud opinberadur í holdinu; nú var madurinn Jeſús Chriſtur kominn í heiminn. En jafnvel þó øll guddóms fylling byggi í hønum líkamliga, útvaldi hann þó ſjálfviljugliga þjóns mynd, lítillækkadi ſjálfan ſig, og var ſínum himneſka fødur hlýdinn allt til daudans, allt til daudans á krosſinum. Hann dó oſs til beſta, og úthellti ſínu blódi til fyrirgéfníngar ſynda vorra. Þannig var hann útgéfinn fyrir vorra ſynda ſakir, uppvakinn oſs til réttlætis, upphafinn til Guds hægri handar, auglýſtur ſem Drottinn og Chriſtur, ſem mannanna endurlauſnari, og veraldarinnar ákvardadi dómari; og þannveg verdur hann ennnú prédikadur manneſkjunum, fyrir kénníngu Evangelii, ſem heimſins kroſſeſti Frelſari, hvørn Gud ſettan hefir til nádarſtóls í hans blódi Róm. 3, 25. Hvør ſem nú trúir á hann, verdur fyrir hans nád, og í krapti hans dýru forþénuſtu, réttlátur, ſáluhólpinn, heilagur, og erfíngi eylífs lífs.

Øll þeſsi ſannindi, áſamt marga adra chriſtiligra trúarbragda lærdóma, innilykur Poſtulinn undir þeſsu nafni: ordid edur rædan af Krosſinum.

Ad lída ofſókn fyrir þeſsa lærdóms vidurkénníngu og forſvar, er ad lída hana fyrir Chriſti

kross sakir; og ad hrósa sér af þeirri sáluhjálp, sem madur hefir í Jesú, er ad hrósa sér af hans krossi Gal. 6, 12. Og sjá! þetta er nú efni þad, til hvørs yfirvegunar vér leida vildum þánka eins og sérhvørs lesara edur heyrara. Þvílíkt efni, sem þess naudsynligra er ad fá vel inn-þryckt sér og ødrum, sem þetta ord út af kross-inum, hefir, á vorum døgum, framar enn nockru-sinni ádur, verid álitid fyrir heimsku, jafnvel þad í raunini sé hinn ædsti Guds kraptur og speki og adalgrundvøllur vorrar eylífu sáluhjálpar. Gud gefi þartil nád í Jesú nafni!

Látum oss þá innlykja þad, sem vér um þetta dýrmætasta efni segja viljum, í eptirfylg-jandi hesud-atridum:

1. Christi Kross sýnir oss uppfyllíngu alls ráds og álygtana lifanda Guds, jafnvel allra spádóma og fyrirheita Gamla Testamentisins, um þad, ad hann vildi aptur vidrétta og frelsa allt mannkynid, sem var í synd og dauda fallid. Þánkar og rádslaganir þess miskunsama Guds høfdu frá eylífu haft þad augnamid, sem med Frelsarans dauda nádi sinni fullkomnun. Þar fyrir vitnar Ritníngin um hann: ad hann, sem vort fórnarlamb, sé deyddur frá heimsins upp-hafi (Op. 18, 8.); ad hann, eptir Guds velfyrir-hugada rádi og fyrirhyggju, hafi í krossins dauda gefinn verid. (G. 2, 23.) Og þetta sama rád hans himneska Fødurs, þetta hans nádar fyrir

tæki. í Christo Jesú, er sagt eylíft ad vera. Hverfu margir eru ei þeir spádómar, sjónir, fyrirmindanir og fyrirþeit, sem á Christi krossi, edur hans krossfestíngu, nádu sinni uppfyllíngu? Í þessum stóra midpúnkti mætist þetta allt til samans. Allt í frá Móyse til Malchia vitnadi Guds andi fyrirframmm um Christi pínu, og þá dýrd, er hann, ad henni afstadinni, hljóta mundi. Já, til Christi kross midudu allar Guds tilvísanir, í gégnum allar umlidnar allda radir. Allar þær ceremoníur, tilskipanir og fyrirmindir, sem Gud h. di í Móyses lögum ákvardad og tilsett, nádu hér sinni uppfyllíngu. Því ef vér skodum þær ecki í þessu ljósi, hvad meiga þær þá annad álítast, enn rétt augnamidslausar og fánýtar innréttíngar? já, þvílíkar, sem einganveiginn sambjóda kunna síns Stiptara stóra vísdomi. Svo miklar blóds úthellíngar, svo margra saklausra offurdýra slátrun, (svo Jósep sagnameistari vitnar, ad einast eitt Passkakvöld hafi í Jerúsalem slátrad verid 255 þúsund og 6 hundrud Páskalombum), já, svo mikil eydsla þess slátrada kjöts; hverja þýdíngu skyldi þetta adra hafa, ef ecki þá, ad uppvekja hjá mönnum og stadfastri vid ad halda þeirri sannfæríngu, ad án Jesú blóds úthellíngar, væri ómöguligt ad fá fyrirgéfníngu syndanna? Þær óþverrandi fornfæríngar svo margra meinlausra skepna bendtu sannarliga til þess eina stóra offurs, sem Jesús, það flecklausa

Guds lamb, skyldi frambera fyrir Gud, med sjálfum sér. Þegar þessar fornfæringar stodadar eru í þessu ljósi, sær hver þeirra um sig, sína vissu og mikilvægu þýdíngu og augnamid.

Fyrir þá skuld, kénnir Nýa Testamentid oss, ad állta offurgjørdir Gamla Testamentisins fyrir skugga eptirkomandi giæda; já, þvílíkan skugga, hvørs líkami var í Christo. Þar fyrir, ef madur ber Fyrirmindanirnar móti því ljósi, sem leiptrar frá Christi kro'ci, hverfur øll rádgáta og þoka frá þeim í burtu. Margir þeir mikilvægustu tilburdir, margar þær merkiligustu persónur, sem Gamla Testamentisins rit umgéta, vóru fyrirmindir uppá Christi kross, og oss er ómøguligt ad fara villt í þeirra útþýdíngu og heimfærslu, af því Nýa Testamentisins skrifarar, knúdir af heiløgum anda, hafa kénnt oss þeirra rétta skilníng og þýdíngu.

Til dæmis:

Prestskapur Melchisedeks svovel sem Aarons og sona hans, var fyrirmind Guds sonar eylífa Prestsdæmis, edur hans eylífliga gildanda Medalgaungu embættis, Ebr. 4. Saga Jóseps Jakobssonar, hvørsu skírliga fyrir sjónir setur hún ecki Jesú gjørvallu lífskjør á jørdunni? Tilburdur sá, nær Isaac bundinn af síns heittelskanda Fødurs eigin hendi, var sem eitt offur lagdur á altarid, sær vid Christi kross sína augljósa útþýdíngu Ebr. 11. Eyrormurinn var í eydimørk-

unni upphafinn, til þess ad hid særda Israels fólk skyldi þarmed læknad verda; Jesús var upphafinn á krossinn, til ad græda allra manneskja synda-meidsli. Um það sannfærir hann sjálfur, seigjandi: svoleidis byrjar mannsins syni upphøfnum ad verda, til þess ad hvør og einn, hvørt sem hann er Gydíngur edur heidíngi, sem á hann trúir, ecki skuli fortapast, heldur hafa eylíft líf. Jóh. 3 14. Med himnabraudinu var líf fólksins vidhaldid, sem ferdadist frá Egyptalandi til Canaan; Jesús kom af himnum ofan og kallar sjálfan sig það «sanna braud, sem heiminum gèfur líf" Joh. 6. 32. Hellan vard sleigin, til þess ad Guds fólk, er ætladi ad vanmegnast af þorsta, feingi ad drecka og héldi lífi; Christur var sú hella, sem, fyrir vora skuld, med réttlætisins sverdi sleigin var, til þess vèr fá mættum vatn lífsins og sáluhjálparinnar 1 Cor. 10, 4. Jósúa leiddi Israels fólk til Canaan, Jesús vissar sínum til þess eylífa hvíldar og sáluhjálpar fyrirheitna lands, nefniliga til himnaríkis. Á øndverdum aldri heimsins hafdi Guds fólk til styrkíngar sinni trú það óljósa fyrirheit: «ad kvinnunnar sædi skyldi í sundurmola høggormsins høfud.» Forfedurnir hughreystu sig vid það fyrirheit: «ad allar jardarinnar kynkvíslir skyldu í því fyrirheitna sædi blessadar verda» 1 Mos. 22, 18. Job trúdi því, ad sinn Endurlausnari lifdi, og Jakob, á sinni banasæng,

uppfylltur af guddómligum innblæstri, eptirskilur hann merkiliga spádóm sonum sínum: "ad veldis sprotan ecki skuli takast frá Juda, né Lærimeistarinn frá hans fótum, fyrr enn Silo, edur Fridarfurstinn, kiæmi, og til hans mundu þjódirnar falla 1 Mos. 49, 10. Fyrir Daniel opinberadist ennnú greiniligar sú eptirþreida tíd, þá Messías koma skyldi, yfirtrodslan burtutakast, syndin hyljast, misgjørníngurinn forlíkast, þad eylífa réttlæti framleidast, og sjónir samt spádómar innsiglast. Dan. 9, 2. Kríngumstædurnar vid Jesú krossfestíngu eru fyrirspádar í Davids Sálmum, svo ljósliga, eins og høfundurinn hefdi nálægur verid, þá þær skédu, og med sínum líkamligum augum sied allt, sem meir enn þúsund árum sídar tilbar vid Jesú dauda. Hans sálarángist, hans kvalahróp á krossinum, hlutkéstis-varpanin um hans klædi, hans handa- og fóta-gégnumboran, gallid og edikid, sem hønum var gésid ad drecka, hædnin og bríxlid, sem hann þoldi, og spottid fyrir hans traust á sínum himnesska fødur, allar þessar kríngumstædur, ásamt ødrum fleirum, eru med berum ordum tilnefndar í sálmi Davids 22.

Af spámønnunum er Jesús fyrir sjónir settur, hmist sem lídandi madur, edur sem sigurvinnari. Sumir tala um hans nidurlægíngu, sumir um hans upphafníngu. Þeir teikna hann sem þá stiørnu, er koma skuli af Jacob, og sem kvist þann uppsprettur af Jessé rót. Hann asmálast

sem sáttmáls eingill, sem hinn eptirþreydi af öllum þjódum, hvar ed snarliga koma muni til síns musteris. Mal. 3. Hann er og fyrir sjónir settur, sem konúngur, sem stjórna muni med réttlæti, og útþenja sitt veldi frá einni sjáfarströndu til annarar, hvers kóngsríki muni eylíft verda, og hvørs herradæmi aldrei skuli enda taka. Ps. 72, 5—8. Já, af einslags guddómligri drift og innblæstri, úthrópa þeir þvílíkan hátignarligan bodskap: „oss er eitt barn fædt, einn sonur er oss gefinn, hvørs herradómur er á hans herdum, og hann heitir: undarligur, ráð, Gud, hetja, eylífur fadir og fridarhöfdíngi." Es. 9, 6. Þegar þeir þar á móti tala um hans nidurlægíngu, kalla þeir hann: madk og ecki manneskju, spott mannanna og fyrirlitníngu. Ps. 22, 2. Þeir afmála hann sem baradan án orsaka, sem þann forsmádasta og vandvirdasta; hvar svo sem annad lamb leidast mundi til slátrunar, og fullur sé af sárum og sjúkdóm, og burtnuminn muni verda af landi lifendra. Es. 53. Allir þessir og margir adrir spádómar upplýsast, uppfyllast og stadfestast med Christi krossi.

2. Christi kross er Evangelii höfudatridi og adal-innihald þess. Því hvad er Evangelium annad, enn gledibodskapur af himnum ofan um nád, frid og sáluhjálp, fyrir Guds sonar pínu og dauda? Hvar er summa alls Evangelii lærdóms

og kénnínga? Christur hinn krossfesti. Hvad er sem þeir 4 gudspiallamenn skrifa um? hvad, nema þetta sama efni, sem og med réttu kallast má Evangelíum. Þeir skrifa eina historíu eda søgu um krossinn; þeir seigja oss frá, hvad Jesús hafi gjørdt og talad; hvad hann hafi mátt afbera og þola, fyrst af myrkranna makt, þarnæst af mannanna árásum, og í þridjalagi af guddómsins réttlætis sverdi. Þeir tilkynna oss, hvørsu hann ad sídustu var dæmdur og á krossinn negldur, fyrir sinn djørfúngarfulla vitnisburd um þann sannleika: ad hann væri Guds eingétinn sonur, og ad sér tilheyrdi sama heidur sem sínum fødur; því søgdu Gydíngar: "vér høfum løg og eptir vorum løgum á hann ad deya, því hann gjørdi sjálfan sig ad Guds syni." Joh. 19, 7. Svo er þá Evangelii lærdómur, lærdómur um krossinn. Vér predikum Christum þann krossfesta. Einn þeirra yppursti Jesú postula, sem útsendur var til ad frambera hans hafn fyrir heidíngja og konúnga, svo vel sem Israels lýd, sagdi: "eg héldt mig þessvegna, edur tók fyrir mig, ad vita ecki af neinu ødru ad seigja, medan eg var hjá ydur, enn Jesú Christo og hønum krossfestum." 1 Cor. 2, 2.

Christs daudi fyrir syndir vorar er svo ad seigja sálin í Evangelio. Hér mætast allir lífgandi geislar þess evangeliska sannleika til samans, svosem í einslags brennipúnkti. Þadan hafa þeir allir sitt líf og sinn krapt. Madur skal ecki

géta sýnt einn einasta þátt í þessari heilögu lærdóms byggíngu, hvör ef hann slitinn er úr þessu samanheingi, og án þess hann sé hid inniligasta samteingdur þessu höfudatridi, nefnil. lærdóminum um Jesú Christs dauda, hvör þá, seigi eg, géti án þess stadist, edur gjördt nockra gagnliga verkun í manneskjunnar hjarta. Vor útvalníng til eilífs lífs, vor köllun, vor nýa fædíng, vor réttlætíng, vort samfélag med Guds heimafólki, vor helgun, vort framhald í trúnni og helgunninni allt til daudans, vor eylíf sáluhjálp, allt þetta hefir medalkláusa og allranákvæmsta sameiníngu med Christi fridþæganda dauda. Takist þessi grundvöllur burt, fellur heila byggíngin um koll.

3. Christi kross er syndaranna hjelsun. Evangelíi lærdómur gjörir Gudi eins stóra dýrd og æru, sem hann eptir mannanna sönnu velferd og sáluhjálp. „Dýrd sé Gudi í upphædum, fridur á jördu, og mönnum gódur vilji" voru þau gleditídindi, sem þeir himnesku sendibodar létu fylgjast ad, strax vid Jesú fædíngu. Frelsi syndugrar manneskju, er það háleita efni, hvört í Evangelio framsett verdur, og sem snertir oss manneskjur alla svo nákvæmliga. Persóna sú, sem fullkomnadi þetta stóra verk, kallast þessvegna Frelsari; ja, allmáttugur Frelsari; kominn til ad frelsa oss frá þeirri ókomnu reidi, og draga oss upp úr syndarinnar og hörmúngarinnar gryfju, í hvörja vér nidursöcknir vórum, og til ad upp-

hefja oss til þeirrar æru og verdugleika, ad meiga njóta eylífrar sælu í himnaríki. En þetta framkvæmdi hann, ecki ad eins og alleina med þeim himneska lærdómi, sem hann kéndi, og med sínu ljóssfjæra líknadardæmi, er hann gaf oss eptir ad breyta, heldur allraheldst med þeirri kvøl og krossins dauda, er hann fyrir syndir vorar líða mátti.

Mannkynid afmálast í heil. ritníngu — því sannleikans ordi — svosem stadt í fortøpunar og fordæmíngar standi; hvørn sannleika þad sjálfselskufulla mannshjarta er þó svo ófúst og tregt til ad játa og vidurkénna. En Jesús kom þó til ad frelsa þad sem fortapad var, þegar hann offradi syndum vorum á sínum líkama, uppá trénu, 1 Pet. 2, 24; þegar hann særdur var fyrir vora misgjørníngа og lemstradur fyrir vorra synda skuld; þegar hann, sá réttláti, leid fyrir þá ránglátu, svo vér fyrir hans sár skyldum læknadir verda, og fá lífid fyrir hans dauda. Fullkomnan alls þessa, sem frá Christi krossi skín oss svo skjært fyrir augum, ó hvílíkan styrk eykur þad ei trú vorri og sannfæríngu, um ad þad allt sé óbifanligur sannleikur, sem ritníngin kénnir oss, áhrærandi vors frelsara guddómliga verdugleika! Jafnvel þó hann væri sannur madur, til ad géta lidid, og dáid fyrir oss, þá "bjó samt øll fylling gudsdómsins í hønum líkamliga." Og þessi guddómsins fylling, sem hans manndómliga náttúra, fyrir þá persónuligu sameiníngu med þeirri guddóm-

ligu, feingid hafdi, gjördi pínu hans og dauda gildandi til fridþægíngar fyrir heimsins syndir. Hefdi daudi vors frelsara á krossinum ecki átt ad koma til vegur slíkri fridþægíngu, og hefdi þessi fridþægíng ecki þurft ad hafa eylíft og óendanligt gildi, hvör þörf var þá á því, at Gud skyldi opinberast í holdinu? hvarfyrir skyldi þá vor endurlausnari vera Immanuel, vera Gud med oss, Gud í vorri náttúru? Einúngis einn eingill af himni, hefdi gétad kénnt oss gott eptirdæmi; já, jafnvel hefdi ogsvo ein heilög manneskja kunnad ad gjöra þad sama. En guddómur Christi og hans fridþægíng hljóta ad falla og standa hvört med ödru; og þad fljótur vissuliga þaraf, ad sá sem neitar því eina, hljótur, eptir skynseminni, ogsvo ad neita hinu ödru. Sá ósýniligu kraptur og guddómligi verdugleiki þeirrar medalgángandi persónu, tilleggur hans sýniliga offri eylíft fridþægíngar verd.

Daudinn er syndarinnar verdlaun, hennar eiginliga og rétta straff; en hvörnig géium vér þá frelsadir ordid frá þessari hörmungu, sem syndin hótar oss? sannarliga aldrei fyrir vora eigin forþénustu og verdugleika, ellegar nockurt annad medal, sem stendur í voru valdi, heldur einúngis fyrir þad frelsismedal, sem sjálfur Gud hefir vor vegna tilsett; já, alls eckert annad frelsar oss frá eylífri fortöpun, enn sú eylífa endurlausn, sem Jesús fundid hefir. Og þetta seigir oss ritn-

íngin, með þeim allra skírustu og allra eptirtekta-verðustu orðatiltækjum: "í eingum ödrum, seigir hún, er hjálpræðið; því þar er ecki heldur neitt annað nafn, undir himninum, géfið mönnunum, í hvörju þeir skulu hólpnir verða," Gb. 4, 13. Bannfæríng Guðs heil. lögmáls, hvört vér yfir-troðið höfdum, er fyrir Jesú dauða á krossinum frá oss tekin. Ef vér alleinasta höfum trúna á Guðs son, svo er eckert orð í lögmálinu, sem oss skélfa eður fordæma kann. Christur hefir í vorn stað liðið það skélfiliga bannfæríngarstraff; já, hann hefir vora bannfæríngu borið, þegar hann gjördist vor borgunarmaður, og tók uppá sig að frelsa oss. «Christur, seigir Postulinn, hefir endurleyst oss frá lögmálsins banni, þegar hann sjálfur var bannfærður vor vegna." Gal. 3, 13. Þannin friðþægir nú Christi kross oss við Guð, og stiptar frið milli vor og hans. Hann stillir þá móðgudu réttlætisins reiði, með því þar er fullkomin fullnægjngjörð útlögð fyrir vorar syndir. Fyrir þessa fullnægjngjörð er réttlætið bifdkað, og umfaðmar því með velþocknun sér-hvörja þá sálu, sem á Jesúm trúir; hvar þess-vegna kallast vor friður, með því hann «fyrir blóðið síns kross, hefir friðstillt, seigir Páll, allt það sem er á jörðu og á himnum," Col. 1, 20. Híngað má og heimfærast sá postulligi vitnis-burður; «Guð var í Christo, og sætti heiminn við sjálfan sig, tilreiknandi þeim ei þeirra syndir,"

2 Cor. 5. Í krapti þessarar friðþægíngar, verð- um vér réttlættir, og ødlunst fyrirgéfníngu synda vorra, fyrir trúna, í hans blóði; "án blóðs út- hellíngar skéður eingum eingin fyrirgéfníng," seigir ritníngin Ebr. 9. Svo þúngabladnir, sem vér erum með óteljandi misgjørdum og syndum, kunn- um vér þó aldrei sreisaðir verða frá einni einustu þeirra, nema fyrir Jesú dauða á krossinum. En fyrir hans sakir skiljast vorar yfirtrodslur svo lángt frá oss, sem austrið er frá vestrinu; því «Jesú Christi Guds sonar blóð hreinsar oss af øllum vorum syndum," 1 Joh. 1, 7. Hvør og ein sál, sem á hann trúir, fær fyrirgéfníngu syndanna í hans nafni. Syndin verdur henni ecki í dómin- um tilreiknuð. Hún veidur svo afmáð og út- sliett, sem aldrei hefdi hún drýgð verið. Já, vér erum fullvíssir um að, á hana verdur aldrei framar að eylífu minst. Jesú réttlæti dylur oss, skýlir vorum nakleika og vorum brestum, og gjørir oss réttláta, svosem hann réttlátur er. O hvílík ómet- anlig lucka er þetta! hvør túnga kann að útskíra, hvørt hjarta réttiliga að þeckja hennar gjørvalla verð og dýrmæti!

4. Christi kross fyrir sjónir setur oss Guds eiginligleika í fullkomnasta og skjærasta ljósi. Hans eylífa gjæzka og miskunsemi verdur hér í jafnri tróppu, sem hans heilagleiki og réttlæti, hátignud og dýrdlig gjørd. Nær sá réttvísi Guð gjørdi eitt sinn þá føstu ályktun, að velja audsýna

syndurum óendanliga nád og miskunsemd, hlaut álýktast sú ad framqvæmast á þvílíkan hátt, ad hans æra, hans veruligi heilagleiki og réttvísi lídi þar vid einga nidrun edur skérdíngu. Vísdómur Guds framskín ad vísu af öllum hans verkum, en hvörgi sáum vér þó um hann eins hrærandi sannfæríngu, sem hjá Jesú krossi. Hvör hefdi uppþeinkja kunnad eitt þvílíkt frelsismedal, því fallna mannkyni til uppreisnar? Hvörsu dásamliga eru hér sameinadar nádarinnar og réttlætisins kraftur, er þó sýnast ad strída svo hvörjar ámóti annari; og þad svo, ad hvörigur þessara Guds óumbreýtanligu eiginligleika lídi þarvid minstu hnöllun? Hefdi straff syndarinnar, med allri þess strídu, geingid yfir sjálfan syndarann, þá hefdi dýrd og fegurd nádarinnar hulin verid. En hefdi þar ámóti syndarinn feingid fyrirgéfníngu, án þess ad annadhvört sjálfur hann, edur hans borgunarmadur heídi þad tilunna straff lídid, þá hefdi réttlætinu verid nidrun gjörd, og, svo menn tali þarum eptir mannligum skilníngi, þá hefdi einn veruligur Guds eiginligleiki feingid figur yfir ödrum. Því einn Gud med tómri miskunsemi, hefdi verid Gud án allrar réttvísi. Páll seigir oss Róm. 3, 25. "ad Gud hafi sett Jesúm til nádarstóls fyrir trúna í hans blódi," og þad sama í þeim tilgángi og augnamidi: "ad hann opinberad gjæti sitt hegnandi réttlæti," (vors eiginliga athöfn er ad straffa syndina. Á þvílíkan

hátt sýnir sá heilagi Guð, hvað ýfrið strángur og réttvís hann er í sinni ráðstöfun og stjórnun, jafnvel ogsvo þá, nær hann réttlætir þá sálu, sem á Jesum trúir. Og með því að útbýta á þann hátt náð sinni, innrætir hann stærstu og djúpustu blygdun og hræðslu fyrir sínu heilaga lögmáli, og undireins í ljós leiðir sitt óumbreytanliga hatur og viðbjóð á syndinni. Það straff, sem lagt verður á þá fordæmdu í helvíti, er ekki jafn óttalig ræksemd til þess, hvörsu Guðs réttlæti og heilagleiki hati syndina, sem sú, er menn draga kunna af Christi krossfestíngu. Því hafi Drottinn Guð ekki þyrmt hönum, þegar hann, einasta þó fyrir tilreiknun, en ekki tilverknað, bar annarligar, það er, vorar syndir, hvörsu miklu síður mun hann þá þyrma harðhnakkuðum syndugra, sem með þverúð forherðir sig í sinni vondsku gégn Guðs lögmáli? Eckert er, sem, eins og þetta, opinberar hvað syndin sé viðurstyggilig og yfirmáta straffsverð í Guðs augum; og eckert ætti þessvegna géta eins kroptugliga verkað til að vekja þræla syndarinnar og ránglætisins, en sá skélfiliga bitri og bölvaði dauðdagi, hvörn lífsins Herra hlaut að afbera fyrir vorra synda sakir. O, að allir legði þetta uppá hjartað réttiliga! Nú er það sjálfsagt, að ekki leiðist Guðs kjærleiki og miskun síður í ljós, við Jesú kross, enn hans réttlæti. Því hvörnig kunni vor himneski faðir að auðsýna föllnum syndurum stærri kjærleika, enn

þegar hann útgaf sinn eingétinn son, til ad líða og deya í syndaranna stad? Stærri rökfemd til hans miskunandi kjærleika, kann af eingri mannligri skynsemi ad upphugsast. Hann hefir vegsamligan gjørdt sinn kjærleika í allrahæstu troppu, á þann hátt, sem med djúpustu audmýkt leggja má oss í duptid fyrir hans fótum, og uppvekja má hjá oss hina inniligustu þacklátsemi og vidurkénníngu; því «svo elskadi Gud heiminn — á þvílíkan hátt og í þvílíkri troppu — ad hann útgaf sinn eingétinn son — í píslir og dauda, já, í krossins dauda — uppá þad, ad hvør og einn, sem á hann trúir, ecki skuli fortapast, heldur hafa eylíft líf." Þetta kann í sannleika ad kallast kjærleiki! já, guddómligur kjærleiki! Í einu ordi: ef vér sjá viljum Guds tilbeydsluverdu fullkomligleika fyrir sjónir setta, í þeirra skjærasta ljósi, þá hljótum vér ad festa athugasemi vora á endurlausnarans persónu, í myrkrum hans djúpu nidurlægíngar á krossinum.

5. Christi kross er sigur yfir vorum sálar-óvinum. «Fyrir sinn dauda á krossinum undirlagdi Jesús þann sem daudans vald hafdi, þad er Djøfulinn." Ebr. 2, 14. Þarmed hefir hann herleidíngana ad herfángi tekid, og yfirunnid myrkranna makt. Á sínum krossi hefir hann sigrad og sigurhrós haldid yfir høfdíngjadømum og maktarvøldum. Col. 2, 15. Og þad eins fyrir þad, þó þessir óvinir fái enn um lítinn

tíma, ad giøra oss hans trúudum, ónædi og áráſir. Fridarins Gud mun þó ad lyktum troda Satan, med øllu hans lidi, undir vora fætur, og þad brádliga. Vor gamli madur er med Christo krossfestur, svo líkami syndarinnar kraptlaus verdi, Róm. 6, 6. Oaptúrkallanligt er þetta bodord Evangelíi: «Syndinn skal ecki géta drottnad yfir ydur, med því þér erud ecki heldur undir lögmálinu, heldur undir nádinni" Róm. 6, 14. Eptir þad Páll hefir med hugarángri þannin spurt: «Eg vesæl manneskia, hver mun frelsa mig frá líkama þessa dauda?" lítur hann ódara í þá átt, hvadfyrir hans augum opnast fullkominvonar sjón, sem umbreytir allri hans sorg í gledi, og lætur út af hiarta hans streyma þessa lofsgiørd: Gudi sèu þackir, sem oss hefir sigurinn géfid, fyrir Drottinn vorn Jesúm Christ!" Róm. 7, 24.

Eins er heimurinn, med øllum hans tælíngum, sigradur í Jesú dauda. Nær trúadur madur kennir sínum sálaraugum ad Jesú krossi, er hønum þad óhult hiálparmedal gégn øllum heimsins áreitíngum og tælandi dæmum. Hann finnur, af eigin reynslu, meinínguna í þessum ordum postulans Páls «ad heimurinn sé hér, fyrir Jesú kross sakir, krossfestur, og hann apturheiminum" Gal. 6, 14; hann finnur, ad heimsins glis og ginníngar, hvørt heldur til fráfalls frá trúnni á hans persónu, edur hlýdninni vid hans

lærdóm, tapa öllum sínum krapti móti hans hiarta, þegar hann setur sér þann krossfesta fyrir siónir, svo honum verdur þá allt þvílíkt ad einni vidursiogd, jafnvel þó hann kunni ad baka sér þar med forakt og hatur af heiminum í stadinn. Loksins hvad daudann snertir, þann mannanna sídarsta óvin, þá verdur hann, svo vel sem hin dimma gröf, er svo skélfilig er öllum lifandi verum, þau verda og svo fyrir Jesú kross sigrud og yfirunnin. Daudinn hefir ad sönnu alltíd mieg óttaligt útlit fyrir augum manna, en hans broddur er þó afbrotinn, fyrir Jesú kross krapt; því nær syndin er fyrirgéfin, er daudinn vopnlaus. Med diørfúngu kann þessvegna hvør einn til nádar tekinn syndari ad seigia: «Daudinn er uppsvelgdur í sigur! Þú daudi, hvar er broddur þinn? Þú afgrunn, hvar er sigur þinn?" 1 Cor. 15, 54. Já kóngur skélfíngarinnar er vid Christi kross umbreyttur í einn fridarbodara. Nú er daudinn vor ábati, og gröfin hvílurúm handa vorum fúnu líkama moldum, inntil þess stóra upprisu dags.

6. Christi kross er sú kroptugasta uppvakníngar ástæda til heilags lifernis. Sá lærdómur, ad var réttlætíng fyrir dauda vors Endurlausnara, sé út af einskiærri og oldúngis ófortiéntri náð, án alls tillits til vors eigins verdugleika, sá lærdómur, seigi eg, ónýtir ecki, heldur stadfestir og styrkir, og á kroptugasta hátt eflir sannan sidalærdóm og hans réttu æfíngu. Sidalær-

dómur sá, sem heilög rituíng inniheldur, er bygdur á evangeliskum grundvallar ástædum, og upplífgast af vors deyanda frelsara þeíngandi kiærleika. Ef vér eigum til góðra verka æfíngar upphvattir ad verda, þá er Christs kiærleiki til vor, sannadur og sýndur med hans dauda, hin sterkasta uppvekiandi æstæda partil Lifandi innþrycking hans kiærleika hefir kroptugri verkan, enn þær allra sannfæríngarríkustu skynsemdar røksemdir, til þess ad efla vora framfør á veigi heilags lifnadar, og orkar miklu framar, en þær óttaligustu hótanir straffs og kvala, ad skélfa oss frá syndum og löstum. Vér erum ecki þarfyrir þeirrar meiníngar, ad áminníngar til vorra skylduverka uppfyllíngar, séu ónaudsynligar, edur ad það sé óþarfi ad upphvetia Christi eptirfylgendur, til ad feta med trúlyndi í hans fótspor. Ney eingan-veiginn! en hitt høldum vér og erum sannfærdir um, ad vors frelsara kiærleiki og nád, sem augljósist med hans dauda, sé hin kroptugasta drif-fiødur til ástundunar og trúskapar í því ad æfa heilagt lífferni. Þessvegna seigir Ritníngin (Tit. 2, 11): «Guds heilsusamliga nád (auglýst í Jesú Christs persónu, og einkum med hans pínu og dauda), hún kénnir oss ad afneita øllum ógudligleika, og veraldligum girndum, en lifa sparliga, réttvísliga og gudliga í heimi þessum". Þessvegna ef vér viljum upphvattir verda til hræsnislausz og ávaxtarríks kiærleika til hans, sem

er hœfunður vorrar sálnhiálpar, þá vitum vér einga rœksemi, er kroptugligar kunni að vekia oss til þess, enn þessa Postulans áminníngu: «Látum oss elska hann, því hann elskaði oss að fyrra bragði". Ef vér vilium hræraſt til hreinskilinnar sorgar yfir syndum vorum, þá er eckert betra fyrir oss, enn að líta til hans, hvorn vér hœfum gégnumstúngið, og þá mun það tilliit verka hiá oss, þann sama hiarta-stíng, sem Peturs tilheyrendur feingu við áheyr þeirrar fyrstu evangelisku predikunar, hvar út af spretta mun þá hin sanna hrygð, sem er eptir Guðs sinni, 2 Cor. 7, 10. Iá, eckert er svo œflugt til að sundurbrióta það steinharða hiarta í oss, og uppvekia hiá oss réttiliga evangélisk ángur sem skoðan vors líðanda Frelsara: "hvored særður var, sekum vorra misgiørnínga, og lemstraður fyrir vorra synda skuld". En framar, ef vér villium afneita heiminum, og krossfesta holdið, með þess girndum og tilhneigíngum, þá er eckert medal kroptugra þartil, enn rótfœst sannfæring um: «að Christur dó fyrir oss, til þess að vér skyldum deya syndinni, enn lifa réttlætinu". Loksins ef vér vilium, með lit og krapti, leidaſt til æfíngar vorra skylduverka, í tilliti til vorra medmanneskia, þá er eckert sem framar gétur vakið, knúð og skuldbundið þartil, enn Guðs vors Frelsara giœdska og kiærleiki; því seigir Páll, Eph. 5, 2: «gángið í kiærleikanum, svo sem Christur hefir elskað oss,

og útgéfið sig siálfan fyrir oss". Og alla hina sömu tilkuþandi orsök brúkar postulinn, nær hann vill hvetia christna til ad æfa sinar hvíslugu skyldur. Við ektameninna seigir hann: «elskið ydar ektakvinnur, svosem Christur söfnudinn, og gaf sig siálfan út fyrir hann!" Við ektakvinnurnar: «verið ydar bændum undirgéfnar, eins og söfnudurinn er Christo!" Við foreldrana: «uppalið ydar börn, í aga og umvøndan til Drottins!" (hann meinar til Drottins Jesú Christs, því hann er høfudpersónan í allri hans rædu). Við børnin seigir hann: «verið hlýdug ydar foreldrum í Drottni!" Við yfirbodarana: «gjørið rétt ydar undirgéfnum, því þér hafið Drottinn á himnum!" Við þá undirgéfnu: «verið hlýdugir ydar líkamligum herrum, svosem Christo!"

Og þegar hann yfir høfud vill áþýsa fólk, að laga alla sína hegdun og sidferdi Drottni til dýrdar, færir hann það til ástædu: að menn ecki séu sín eigin eign, heldur eigi sá þá, sem þá keypt hafi dýru verdi (nefniliga Jesús Christur med sínu blódi og dauda) og þessvegna skuli þeir Gudi þióna med líkama og sálu, svo sem sínum eignarherra" 1 Cor. 6, 10. Og á ødrum stað seigir hann: «vér skulum ecki lifa siálfum oss, heldur hønum, sem fyrir oss er dáinn og uppristinn.

Svo siáum vér þá af þessu, að Christi kross er sú einasta uppsprettа allrar sannrar helgunar, og drifffiødur til allra christiligra dygda. «Því

Jesús dó fyrir oss, til ad endurleysa oss frá øllu ránglæti, og hreinsa oss sér sjálfum til handa, svo vér skyldum verda þvílíkt fólk, sem kostgjæfid væri til gódra verka". O hvad duga þær þurru sidareglur og skynsemdarinnar møgru álygtanir, í samanburdi vid vors deyanda Frelsara forundrunarverda kiærleika? Hann kallar, knýr, og þvíngar oss til ad fullkomna helgunina, uppá þad vér í øllum hlutum prýda mættum vors Guds og Frelsara lærdóm. O ad kjærleikurinn til hans, gjæti alltíd lifad med fullum hita í vorum hjørtum! O ad vér lifad gjætum í Guds sonar trú, sem hefir elskad oss, og útgéfid sig sjálfan fyrir oss! Þá mundi einginn brestur verda á sannsudligu líferni!

7. Christi kross er grundvøllur vonar vorrar eptir eylífu lífi. Sumir af sidalærurum heimsins tala um þá von, er bygd skuli vera á því, ad líta tilbaka til síns dygduga lífernis. En, hvørsu svikull er þessi grundvøllur, og hvørsu verda þeir allir á talar dregnir, sem á hønum byggja sína von? Hvørja von kann syndari fá, sem uppvakinn er af Guds anda til ad sjá syndugleika sinn fyrir Gudi, og er þessvegna ángurbitinn og skjálfandi, hvørja von kann þvílíkur einn hafa á þessum ástædum. O hvørsu margfaldar ýfirsjónir, bædi í því ad gjøra þad vonda og vanrækja þad góda, setja sig þeim fyrir sjónir, hvørra augu úpplokin eru, fyrir sanna ydrun

vegna synda sinna? Hefðu þeir þá eingan grundvöll og ástæðu fyrir von sína, annan enn þann, sem fæst af hlýðninni við Guðs lögmál, mættu þeir snart niðursökkva í skélfiliga eimasemdar og örvæntíngar afgrunn. Eingínn óhultur vonar grundvöllur kann þessvegna annar að vera, enn sá, sem afmáir syndina, burttekur fordæmínguna, fridstillir réttlætið, afrekar sátt við Guð og gefur ulláreidanligan rétt til himnaríkis. En öll þessi gjæði eru oss nú útvegud med Jesú dýrmætu fridþægíngu og dauða á krossinum. Héraf flýtur, að Jesú krossdauði er sá óhultasti, já, sá alleinasti grundvöllur og ástæða vonar vorrar. Sú von, sem hvílir á þessum grundvelli, er stadföst og óhult í lífi og dauða. Á þvílíkri von, bygðri á Jesú krossi, byggir postulinn Páll alla sína æru og hrósun, seigjandi: „vér hrósum oss af Gudi, fyrir Drottinn vorn Jesúm Christ, fyrir hvörn vér forlíkunina feingið höfum". Þessvegna, er í síðarsta máta fullvíst, að

8. **Christi kross** opnar oss inngaungu til Paradísar. Sú jarðneska Paradís, sem var einslags fyrirlíking þeirrar himnesku, var strags, eptir fall vorra fyrstu foreldra apturlokuð. Guð setti eingil med nöktu sveipanda sverði til að verja

inngánginn til Paradísar. Vorar syndir, vort fráfall frá Gudi, hefir þarfyrir apturlæst himninum yfir oss. Og eylífliga hefdum vér verid útilokadir þarfrá, ef Jesús Christur, sá annar Adam, sáttmálans Eingill, hefdi ecki, med sínum fridþægandi dauda aptur opnad oss adgánginn til þeirrar himnesku Eden. Sá ydrandi ræníngi fêck af vorum deyanda Frelsara allareidu á krossinum þessa fullvissu: «sannliga seigi eg þér, í dag skal þú vera med mér í Paradís!" Svo sem vor stóri og einasti ypparsti prestur, hefir hann inngeingid í þad allrahelgasta, inn fyrir Guds hástól, til ad tilreida oss stad, og med þvímóti ætlad öllum sönnum Gudsbörnum órækt an rétt til ad hafa, og þad allareidu hér í lífi, sína umgeingni á himnum; og eptir þad þeirra lífdaga hlaup endad er hér á jördunni, ad inngánga þá í þaug eylífu fridarhús í himnaríkis sælufullu bústödum, til ad búa þar hiá Drottni, ad siá hans auglit, ad þióna hönum í hans himneska musteri, og ad taka hlutdeild í hans sælu, hvar Gud mun upphefja þá til eins konúngligs og kénnimannligs verdugleika í hans dýrdarríki, ad eylífu. Þeir heilögu, sem nú eru í dýrdina inngeingnir, hafa yfirunnid fyrir lamb-

síns blód, og hafa sín klædi í þessum hreinsunar brunni þveigid; þarfyrir standa þeir fyrir tróni Guds, og syngja med hárri raustu: „þú ert verdugur og medtaka krapt, og ríkdóm, og vísdóm, og styrk, og æru, og prís og lof; því þú varst daudur og hefir endurleyst oss Gudi til handa med þínu blódi" Op. 5. 9—12. Í einu ordi: blessanir þær, sem fljóta af Christi krossi, eru svo margar og stórar, ad einginn mans túnga getur þær fullverdugliga útmálad. Sjálf eylífdin skal ei oflaung verda til ad yfirvega og ígrunda þær sömu. Þær munu verda höfudinnihald þeirra lofsaunga, sem andar þeirra algiørliga réttlátu frambera á himnum ad eylífu. Ó ad vér þessvegna med postulanum Páli vildum af eingu ødru hrósa oss; enn af krossi Christi, og skammast vor ecki (eins og margir gjøra og gjørdt hafa) hans vegna í mannanna augum.

Hvar fyrir sá vísi skal ecki hrósa sér af sínum vísdómi, ecki sá sterki af sínum styrkleika, né sá ríki af sínum ríkdómi; ney! burt med allt þetta! látum oss ei hrósa oss af einum hlut, nema af krossi vors Drottins Jesú; já, látum sjá, ad heimurinn sé oss hans vegna krossfestur, á þann hátt ad vér af elsku til þess krossfesta Jesú høfnum

heimiṅum, med hans syndsamliga athæfi, en sækjunst yfir allt fram, eptir Guds ríki og því rétt læti, sem hønum er þóknanligt; já, tøkum til þacka, þó vér fyrir þá skuld, yrdum sjálfir heiminum krossfestir, þad er af hønum hatadir og forsmádir, og huggum oss þá vid þessi ord vors Jesú: "Sælir erud þér, nær mennirnir hallmæla ydur og ofsækja fyrir mína skuld! Fagnid þér og verid gladir, því þad skal ydur á himnum aptur betalød verda". Gud gefi oss øllum þvílíkt sinnislag ad hafa í lífinu og þvílíkrar luckn ad njóta eptir daudann, fyrir þess krossfesta Jesú sakir! Amen!

---

## Isaac á Fórnarallkarinu.

Sjáum Isaac bøndum bundinn", til blódfórnar kosinn Gudi' í vil!" hann er þó ecki hæfur fundinn"; hér þurfti annan stærri til!" Pad var Abrahams annar son;" allra heims þjóda líf og von!

Jesús, Messías, Júdæ slektis", Jesús kominn frá Nazareth!" Jehóva, hvørium jafn ei þecktist», á jørdunni hvør sig finna lét!» Hann

sórnadi siálfur sjálfum sér;» sjá hans forn gésna þér og mér.

Hvad vill himininn heimta meira?» hvad er svo dýrt sem Jesú blód!» Gud er ánægdur! hann vill heyra» hróp mitt og þitt um nádarsiéd!» Fórnin er Guds; en verdid vort;» vér þurfum eingan lída skort.

## Himna=mjölid.

Hvad er sem eiguir himna' af hædum», heiminum til ad géfa líf?» Fullt af allskonar gudsdóms gjædum», grædandi synda böl og kíf!» mun þad hid gamla Manna braud», á Mósis dögum sem eyddi naud?

Náttúra þessa öll er önnur», í því Gudsdómsins fylling býr!» kraptur þess á því syndu sönnur;» sálna fæda þad mjög er dýr!» hvör af því etur aldrei deyr,» aldrei þann húngur stadar meir.

Komid því allir haldnir húngri" hingad, og etid lífsins braud!" komid, og ánaud kastid þúngri!» komid, svo léttist ydar naud!" Sadníng er Jesús sálum góð", svölun er mæt hans dýra blód!

## Hellan í Horeb.

Mikil frá Horeb heyrdust undur", þá hellan gaf vatnid. fordum tíd», Israels menn ad feiguir fundu» ferska svölun, þó mæddi stríd", heldu svo affram reisu rétt", af réttlæti Guds sem til var sett.

Frá Golgatha stærri fregn þó færist», full af dásemd, þá hella lífs» af sprota Guds reidi sárum særist", til sefunar mæddum anda kífs;» andligur svo ad Israel» úthaldid géti reisu vel.

Lífsins ydur því býdst af brunni" blessud svölun, þér christnir menn!" takid þann dryck med trúar munni» til ydar, svo þér gétid enn» haldid affram þá hördu leid» til himinsins, gégnum synd og deyd!

## Eyormurinn á trénu.

Hvad er það fyrir sjón vér sjáum?" Sjón hvörri ad eingin lík finst hér;" mind á trégálga hördum, háum» hángandi! veist þú hvör það er?" mun það sá ormur Mósis hóf», miskunar Guds er sýnd pró ?

Ney! það er lángtum annad ædra», ædra enn nockur grundad sær!" einasta lækníng eit«

urskjædra" andarmeina, sem berum vær". Þad er sá lætur líf í tje", lífid heimsins á krossins tré!

Æ þú sem liggur lostinn sárum", lødrandi þínu blódi í" syndari! kafinn sorga bárum", svá þú mátt verda' af dauda frí!" líttú hér uppá lífsins eik!" letji þig aldrei trúin veik.

Kaupmannahøfn, 1822.
Prentad hiá Þorsteini E. Rangel.